# Um dýrmæti og rétta brúkun heilagrar ritningar

af útgéfaranum.

Væri nockur sá hlutur til í náttúrunni, sem hefdi þann krapt, ad gjöra þann, sem hann ætti, og, eptir einni vissri fyrirskrifadri adferd, brúkadi: ríkan, merkugan, vinsælan, heilsugódan og lánglífan; í einu ordi, hinn allra lángéfnasta í öllum hlutum, mundi hvör sá, er kost ætti á slíkan hlut ad eignast, vilja kaupa hann dýrum dómum, og álita einga mædu ólaunada, sem hann þyrfti fyrir því ad hafa.

Nú er í öllu náttúrunnar ríki, einginn sá hlutur til, er slíkan krapt hafi, nema einn einasti; og sá tími var, ad hann var fágjætari en gull og silfur, og flestum manneskjum var ómögulegt hann ad eignast, þó til þess hefdu viljad sinni aleigu kosta. En nú er sú luckuliga öld komin, ad gérsemi þessi

verdur øllum mønnum frambodin, sem hana þyggja vilja, med litlum kostnadi, og brúkun hennar verdur þeim kénd og fyrir sjónir sett — sem í sjálfri sér svo einsøld og létt er, ad jafnvel hinn fáfródasti gétur lærdt hana og ydkad.

Nú munu menn spyrja: hvør er þá þessi dýrgripur, hvør er þessi hin ágjæta gérsemi, er slíkan yfirnáttúrligan krapt í sér hefur?

Hann, kjærir brædur! er einginn annar, en sú heilagasta bók, sem vér Biblíu nefnum.

Hún er í øllu tilliti þvílíkur einn dýrgripur!

Hún gjørir hvørn þann, sem hana á, og réttiliga brúkar, sýlliliga svo lángéfinn, sem eg uppsalid hefi; ad vísu ecki fyrir víst ad øllu leiti á líkamliga vísu, en óyggjanliga á andligan hátt, og í tilliti eilífdarinnar. Hún gjørir mann, til dæmis, ríkan af trúnni og gódum verkum, og veitir hønum hlutdeild í Jesú Christs réttlæti, fyrir hvørt hann ordid gétur erfíngi eilífra audæfa. Hún gjørir hann mektugan, svo hann, sem annar Guds kappi, vinnur sigur yfir fiandmønnum sálar sinnar, medal hvørra sjálfs hans spillti tilhneigíngar eru þeir verstu, og hann stendur því til ad ødlast meiri en konúngliga hátign hjá Gudi.

Hún gjørir hann vinsælan, því hún kénnir hønum máta til, ad hafa Gud, sinn skapara, fyrir vin; og midt í því hann ødlast hans vináttu, fær hann undir eins vináttu heilagra eingla og allra sannra Guds barna. Hún hefur krapt til ad gjøra

hann heilsugódan, því hún leggur hønum óſvikul ráð og medøl móti ſjúkdómi ſyndarinnar og allri vanart síns eigin hjarta; og lokſins gjørir hún hann lánglífan, því nær madur brúkar hana réttiliga, á hann víſt eilíft líf í Guðs dýrdar ríki.

Nú þó biblíunnar guddómligi kraptur audſýni ſig einna helſt í tilliti þeſs andliga og eilífa, þá hefur hún ogſvo merkiliga verkun í tilliti þeſſa ſtundliga lífs lucku. Med því ad gjøra einn Chriſtinn ſparſaman, ydjuſaman og þriſin, víſar hún hønum veg til leiſiligs ríkdóms. Med því ad gjøra hann herra síns ſinnis, og forakfara óguðligs athæfis hjá ødrum, aflar hún hønum virdíngar hjá ſínum medmanneſkjum, og ſtundum þeirrar maktar yfir þeim, ad géta ſnúid þeim frá óguðligu líferni. Med ad gjøra hann réttſýnan í allri høndlun, hlýdinn ſínum yfirbodurum, mildan ſínum undirgéfnum og miſkunſaman vid naudlídandi, útvegar hún hønum ſanna vinſæld hjá ſínum medbrædrum. Med því ad uppørfa hann til hófſemi í mat og dryck og reglusemi í øllum lifnadarmáta, géfur hún hønum beſtu reglur og medøl til ad vidhalda gódri heilſu; hvaraf ogſvo náttúrligaſt er ad lángir lífdagar ſkjóta kunni, ſvo framarliga ſem manneſkjunnar náttúrubyggíng, edur ein ſtaklig áqvardan Guds forſjónar, þar ecki móti ſtrídir, og tekur þá, fyrir ſlíkum, annad þúſund ſælla lánglífi vid.

Eg sagdi fyrir skëmstu, ad sá tími væri nú kominn, ad þessi himnesku dýrgripur — heilög ritníng, væri audfengnari ordinn mannkyninu, en á öllum undanförnum heimsins öldum verid hafdi, því, hvörsu mikla umhyggju eru nú ecki christnar þjódir teknar ad bera fyrir því, ad þessi blessada Guds bók — sá kostuligasti og gagnligasti hlutur, sem veröldin á, og sem í verunni kostar meira en öll veröldin, skuli útbreidast medal allra heimsins þjóda, kynkvísla og túngumála. Þad sanna ljósast þaug ótalmörgu biblíufélög, sem nú eru stiptud vídast hvar í löndunum, þó einna mest hér i nordurhálfunni; svo alleinasta eitt þeirra — þó þad ædsta og upprunafélag allra hinna, nefniliga þad brettska, hefur nú — á vart 20 árum — audgad veröldina med nærfeldt 2 milliónum edur 20 hundrud þúsund biblíum og nýa-testamentum; fyrir utan allt þad, sem af annara kóngaríkja félögum útgéfid er. O hvílíkar hræríngar mætti þetta verka í hvörs þess hjarta, sem nockra elsku elur til þeirra evangelisku trúarbragda og þeirra guddómliga stiptara, sem nockra umsorgun ber fyrir sinni og annara sálar velferd, og sem nockra gledi haft gétur af því, sem mest gledur Gud og mannkynsins frelsara, nefniliga upplýsíngu og forbetrun syndaranna til eilífs lífs. Já hvörsu mætti ecki þetta framknýa sérhvörs christins mans sálu, til inniligasta þacklætis vid lifanda Gud, og til brennandi bænar, um ad hann leggja vyrdist æ meiri og meiri luckn og blessun til þessa

verks. Og loksins mætti þetta uppvekja eina hjartanliga og glada gyrnd hjá øllum, sem christid nafn bera, hvørt sem þeir eru ædri edur lægri stiettar ríkir edur fátækir, úngir eda gamlir, karl edur kona, ad styrkja til þessa dýrdligasta fyrirtækis, med ad offra sínum skérf til eflíngar þessháttar stiptana. Og hvør christinn madur skyldi vera svo sár á sínum líkamligu munum, ad hann ecki tími ad géfa, eptir sínum efnum, meira edur minna, til hans dýrdar og ríkis útbreidslu, sem sjálfur útgaf sitt líf og blód til lausnargjalds fyrir syndugt mannkyn.

Setjum oss fyrir sjónir, kiærir brædur! hvørsu þad gamla Israels fólk — hvørs eptirkomendur í Guds kyrkju vér erum, var fordum yfirmáta fúst og viljugt, eptir Guds bodi, ad géfa til hans sýniliga helgidóms uppbyggíngar, sem ad eins var einn skuggi og fyrirmind Jesú evangeliska ríkis, á nýa-testamentisins øldum. Þegar vér lesum 2 Mb. 35 Cap., sjáum vér, hve mikid og margslags þad var, sem fólkid skyldi frambera drottni til upplýsíngar offurs, í søgdu tilliti, og af 36 Cap. vitnast, ad fólkid hafi svo ørlátliga offrad, ad Moyses hlaut ad láta upphrópa: ad þad ecki skyldi offra meiru en komid væri. Eins ósparliga offradi og svo sama fólk, til þeirrar endurnýudu Guds húss byggíngar, eptir þá babyloniska herleidíngu, og, med miklu fagnadar ópi, lofadi drottinn fyrir þad, ad Guds húss grundvøllur væri ad nýu lagdur. Allt eins gladir mættum vér vera yfir því, þegar vér

fréttum, ad verid sé, med biblíunnar útbreidslu um heiminn, ad leggja grundvøll til þeirrar sønnu Guds kyrkju, bædi í þeim løndum hvar hún aldrei hefur ádur verid, og líka þar, hvar hún ad vísu hefur ádur átt ad hafa verid til, en þó svo leingi hørmuliga nidurníddd, hvist af makt hjátrúar edur vantrúar, svo ad hinn æskiligi tími sýnist nú i uppbyrjun vera, nær sú andliga Babylon skal gjøreydast, en Jmmanúels ríki uppfylla alla verøldina. Nú ef gledin yfir þessu Guds verki hefur í sannleika uppfyllt hjarta vort, mun hún gjøra høndina fúsa og ørláta til þess eflíngar.

Vissuliga var þad eitt med ødru, sem gjørdi Davíd kóng svo ágiætan í Guds augum, ad hann, med svo mikilli áhyggju hafdi safnad, rétt ótrúligri audæfa gnótt, til þess dýrdliga musteris, er sonur hans Salomon uppbygdi. Því af eintómu gulli og silfri ha'di hann safnad hérum *) 30 þúsund tunnum gulls, fyrir utan kopar, járn og adra aura, sem ei vard reikníngi yfir komid. Hafi nú Gud, med velþóknun, litid til þessa, sem byggiangliga var, hvørsu mun hønum ei miklu framar þóknast þad, ef vér, hinir christnu, viljum fúsliga leggja saman til hans andliga musteris uppbyggíngar í verøldunni, í hvørju allar heimsins þjódir mættu blessunina finna. Fordum vildi drottinn eingan

*) 1 Cron. 22, 14. stendur: 100 þús. cent. gulls á 15000 dali, og 1000 cent. silf á 1500 dali.

tómhendtan láta til síns musteris koma, heldur að hvör og einn skyldi géfa til drottins, af því sem drottinn hafði hönum géfið (2 Mb. 16, 6.); svo er og kunnugt, hvörsu gydíngar, á Christs dögum, lögdu ríkliga í þá svokölludu musteris kistu í Jerusalem; ecki einúngis þeir ríku, heldur og þeir allra fátækustu; hvað vér sjáum af dæmi eckjunnar (Marc. 12, 43.), er lagði þar í svo sem hálfskildíngs virði, sem frelsarinn seigir að verið hafi öll hennar lífsbjörg; og hrósar eingu ad síður þessu hennar verki, er margur medal vor mundi álitið hafa óforsjálligt örlæti. Ney, allt hvað af frómu hjarta er kostað til Guðs og hans Christs dýrðar, er aldrei óforsjálligt, enda þó það sé vor sídasti naudsikildíngur — því Guðs dýrð skal oss kjærari, en vort eigið líf. Á medan páfadómurinn drottnaði, vóru menn lángt fúsari að géfa til heilagrar brúkunar, en nú, þegar sú sanna evangeliska trú skal heita ríkjandi; er þó kjærleikurinn hin æðsta evangeliska dygð, og Jesús seigir: að sínir sönnu lærisveinar skuli af hönum þeckiir verða. Nú ef sá rómverski páfi fékk talið fólki, svo vel æðra sem lægra, í allri þessari norður-álfu trú um, það væri Guði til dýrðar, að styrkja og leggja til þeirra svokölludu krossleidángra, hvörra augnamið var þó hið helsta, að frelsa Gydíngaland undan tyrkjanna jarðnesku yfirdrottnun, hvörsu lángt audtaldari ættum vér þá ecki að vera, til að leggja nockurn styrk til hinnar andligu herfarar, hvörrar tilgángur er að frelsa heiminn, svo

hel munnchristna sem gydínga, tyrkja og heidíngja, undan þrældómsoki myrkranna konúngs, med því ad hjálpa til útbreidslu heilagrar ritníngar, sem er það ypparsta vopn þeirrar herfarar. Þó er nú ecki uppá það farid, ad vér leggja skulum til biblíunnar útbreidslu vídar en í voru eigin landi; jafnvel þó þúsundmargir í ødrum løndum, jafn fátækir oss, gjøri það og gjøri gladir; skyldum vér þá ecki elska vora eigin þjód — ja sjálfa oss, svo inniliga, ad vér allir, í einum huga, leggjum kúsir til þessarar, medal margra lofliara, allra lofligustu stiptunar: ad audga land vort med Guds lifanda ordi. Svo sem hvør og ein manneskja á fyrir sálu ad sjá, en sálarinnar einasti líssfordi og lækn-ísmedal er í heilagri ritníngu — sem ødrum lífsins brunni, innifalinn, þá ætti hvør og ein mann-eskja, sem til fulltída aldurs komin er, ad eiga sína biblíu edur nýa-testament, svo sem eina fasteign og forlagseyrir handa sálu sinni.

Ad vísu meigum vér þacka lifanda Gudi, ad vort land, svo fátækt það álitid er, ad jardneskú gótsi, hjá mørgum ødrum løndum, er þó allareidu ordid eitt það ríkasta í verøldunni af Guds lifanda ordi, þar bækur þær, sem innihalda annadhvørt þá heilu biblíu, edur einúngis Jesú nýa-testament, hljóta ad vera til á vorri túngu og innan vorra landamerkja, svo margar, ad nærfeldt ønnurhvør manneskia, af øllu fermdu fólki, gjæti átt eina þess-háttar. Því jafnvel þær fyrstu útgáfur biblíunnar

eru en nú ecki hreint undir lok liðnar, en hvörsu opt þessi heilagasta bók hafi meðal vor útgéfin verið, vil eg hér sáorðliga skáskýra.

Það fyrsta nýa-testament, á vora túngu, eptir það endurbót trúarbragðanna innleidd var, útgaf herra Oddur Gottskálksson lögmaður, og var prentað í Hróarskéldu ár 1540, í 12 blaða formi, sem nú er valla fáanligt framar hér í landi.

Sá annar lúterski biskup í Hólastipti, herra Gudbrandur Þorláksson, gaf, ár 1585, fyrst út þá heilu biblíu í tveggja blaða formi, hvör útgáfa orðin er mikið ságjæt, hjá oss.

Biskup herra Þorlákur Skúlason lét, í annað sinn, prenta biblíuna, ár 1644, í tveggja bl. f., af hvörri útgáfu en nú er mikið til í landi voru.

Biskup herra Steinn Jónsson útgaf, í þriðja sinni, þá heilu biblíu, ár 1728, í tveggja bl. f., af hvörri mikill partur er óeyddur og lítt brúkaður meðal vor, þar hún, vegna síns óskýra stíls, þykir ecki rétt góð afleśtrar, fyrir almúga.

Í fjórða sinni var biblían, á vora túngu, prentuð í Kaupmannahöfn, á forlag munaðarleysíngja-húsśins þar, ár 1747, i fjögra bl. formi, og þar fyrir utan á parti nýa-testamentið í 12 bl. formi.

Af þessari síðustu útgáfu — sem, vegna síns hreina og skýra stíls og ecki ofurstóra forms, er mest elskuð og brúkuð af almúganum, naut Ísland eins mikils hluta géfins, fyrir það guðliga örlæti hins ó gleimanliga danska kaupmans L. C. Stiefstrups,

sem árið 1755, keypti upp, það sem eptir var af henni óseldt, nefniliga 596 heilar biblíur og 1693 nýja-testament, og sendi til Íslands gefins; svo að hvört prestakall á landinu fékk hérum 3 til 4 biblíur og 11 til 13 ný-testament.

Hér fyrir utan hafa útgéfnir verið meðal vor vissir partar biblíunnar; til dæmis: orðskviðir Salómons, skemmu eptir síðaskiptin. Sálmar Davíðs, tvisvar sinnum, af biskupi herra Þorláki Skúlasyni. Lífsaga Jesú Christi (eður Harmonia evangelica) var útgéfin í Skálholti 1687, og aptur á Hólum 1728. Að ógleymdum þeim bókum, sem stutt ágrip heil. ritníngar innihalda, t. d. svokölluð Summaria bibliunnar útgéfin frá 1589 til 1602, og bibliukjarninn 1744, sem og Hosters ágrip bibliu historiunnar 1776.

En þó hefur nú Guðs forsjón geymt hrósið þessari yfirstandandi nýtiandu öldu — sem með réttu má Bibliu-öld kallast — fyrir að hafa auðgað land vort, svo vel sem allan heiminn, með yfirstjórnanligleika þessa andliga himnabrauðs nefnil. heil. ritníngu; þar alkunnugt er, að bæði það háloftiga bretska bibliufélag, og það sjónska í Danmörku lögðu saman, og létu prenta, handa oss, árið 1807, fimm þúsund ný-testament, og aptur það bretska félag 1813, fimm þúsund heilar bibliur og jafnmörg ný-testament, hvörjar allar blessuðu bækur að oss vóru sumpart seldar, með réttu gjaf-

verdi, en sumpart géfnar fyrir eckert. Af þessu séſt, hvílíkur ríkdómur heil. ritníngar hlýtur ad vera til í landi voru; þar af þessari nýuſtu útgáfu hennar og nýa-teſtamentiſins eru í allt útkomnar: 15 þúſ. bækur

og þegar eg bæti hér vid ollu því, sem en nú er eptir óeydt af Gudbrands- og Þorlaks-biblíum, ad eg ecki tali um af Steins- og Waysen- (edur munadarleyſíngja-) húſs-biblíum og nyateſtamentum, fyrir utan allt þad, sem til er í landinu af hebreſkum, gríſkum, látínſkum, þýdſkum, engelſkum, franſkum og donſkum biblíum og nýu-teſtamentum, held eg, fyrir víſt, tala sú ná muni . . . . . 5 þúſ.

Svo yfir hofud hljóti þá til ad vera, medal vor, hérumbil . . 20 þúſundir af þessum heimſins heilogustu bókum.

Nú munu manneſkjur í landi voru, úngar og gamlar, vera hérum 50 þúſundir; svo þegar þar frádregſt fyrir alla ófermda, og þá, sem vegna elli edur sjúkdóms ei á bók leſid géta, ætla eg ad sú afgángs tala muni lítt yfirſtíga tvofaldada tolu hinna heilogu bóka. Lofadur veri Gud fyrir þessa ómetanligu audlegd, hjá hverri alls Indialands silfur og gull er hégómi ad reikna! O ad vér kynnum hann ríkdóm réttiliga ad meta, og einkum vildum oss hann verdugliga i nyt færa!

Veit eg þad er satt, ad þó slík gnægd, af biblíum og nýa-testamentum, sé edur meigi vera til í landi voru, þá er þeim samt einganveiginn svo jafnt skipt, ad þær, eptir sinni tölu, séu jafnmargra manna eskna eign, þar margir eiga fleiri en eina bók af þessum, medan adrir valla sjá hana; og þar ad auki — þó hvörmúng sé til ad vita — liggur svo mikill fjöldi, af þeim sídast útgéfnu biblíum og nýu-testamentum, en nú óútdeildur medal almúgans, og þessvegna aldeilis ónotadur; til hvörs hyrdu-leysis himinin mun ecki líta nádarsamligu auga.

Nú þó útdeiling þessara biblíu- og nýa-testamentis-bóka, sem til eru, geingid gjæti regluliga, væri þó vissuliga meir en helmíngur landsfólksins eptir, sem ecki en nú þessa blessudu bók átt gjæti, og til ad uppfylla þann brest, er nú eitt lofligt biblíu-félag hjá oss stiptad, hvörs framhald, eblíng og ávaxtarsærsla stendur í vor sjálfra valdi, þessa lands innbyggenda, nefniliga: eptir því, sem hvör af oss vill þad fúsliga styrkja, ecki einúngis med vorum tillögum, heldur og svo med því ad kaupa þær bækur, sem út munu géfnar, sem eptir því ódýrari verda, sem tillögin frá oss verda ríkligri. Seigjum ecki, ad ver, vegna fátæktar vorrar, gétum ei til þessa félags lagt! látum Gud á himnum ecki heyra þá afsökun til vor! Ney! hvör og ein sú manneskja, sem unnid gétur sér braud, gétur víst, í hid minsta, tillagt 10 sk. á ári; hvad þá hinir betur megnandi og ríku. Nú þó eg sleppi helm-

éngi alls landsfólksins, og reikni ad eins 10 ß. fyrir hvörja persónu af 24 þúsundum, feingjust samt uppá 25 hundrud ríkisdala á ári; og hvörsu miklu gódu mætti ecki med þeirri summu — og því heldur ef meiri væri — í nockur ár, til vegar koma?

En þad nægir ecki, ad leggja lítid eitt til þess félags, menn verda og svo ad kaupa biblíur og nýjatestamént, nær þaug útkoma. Og — hvörsu létt er þad ecki fyrir marga, sé viljinn gódur! Á líkamligri velmegun eins búanda mans sjest einginn munur, hvört hann á einni saudkind fleiri edur færra í búi sínu; og mun vart ein biblía, því sídur eitt nýatestament kosta meira. Já þó einn ætti ad vinna þad til, ad draga af fædi vid sig um tíma, edur selja eitt hvad af fatnadi sínum — sem ei annad til heidi — uppí andvyrdi einnar biblíu edur nýatestamentis, væri ecki eptirsjáandi; og vilji menn satt seigja, kaupa sumir af tómum óþarfa, meira en því svarar, árliga. Og skyldu menn þá géta lagt inn í samvitsku sína, ad seigjast ecki géta keypt eitt nýatestament, og eyda þó máské tvö edur tre-földu, til lítt naudsynligrar ánægju fyrir kroppinn.

En þeir fátækustu munu víst fá, i bland, þessar heilögu bækur géfins, einkum ef tillögin til útgáfunnar, frá þeim ríkari, verda nockud ríflig.

O þar fyrir, allir þér, hvörjum Gud géfid hefur nockud töluverdt af munum veraldar þessarar, sætid þessu góda tækifæri, ad safna ydur sjód, til

eptirkomandi aldar, med því ad leggja einu stérf á drottins altari! leggid til þessarar gudligu stiptunar af ydar yfirstjóranligleika, og þad ecki sárnaumliga; því hvør naumliga nidursáir, mun naumliga uppskéra. Já kaupid biblíur edur nytestament, og géfid þeim sátækustu þetta lífsins braud, til ad fæda med sálir þeirra, midt í því þér géfid hitt er líkaman næra skal! Vitid, ad ef þér gjørid þetta af gódu hjarta, þá gjørid þér eitt gódverk hinnar edalligustu náttúru!

Hvørsu mikid hefdu forfedur gefid til ad fá eina biblíu, medan skortur var á þessu himnabraudi í landi voru? Þegar hún á døgum Gudbrands og Þorláks biskupa kostadi um 11 rikisdali specie, edur nærfeldt 3 hundrud á landsvísu, sem eptir vorra tíma reikníngi mundi verda hérum 60 til 70 ríkisdalir, feingu hana þó til kaups færri en vildu. Og skyldum vér þá ecki, nidjar þeirra, nú þegar hún frambydst med 10sinnum minna verdi, vilja gladir kaupa hana? skyldi oss, eins og Israels fólk fordum, velgja vid manna, þegar þad rignir svo ríkugliga yfir oss? Hvílíkt himinhrópandi óþacklæti væri þad ecki, fyrir Guds bestu velgjørd! Eda hvørja velgjørd kann Gud ad veita oss betri í lifi þessu, en sitt heilaga ord, hvørt ad er fordi sálna vorra, og án hvørs þeim væri andligur og eilífur bani búinn, eingu sídur en líkamanum án náttúrligs vidurværis. Hvørsu illa svørum vér þá von þeirri og vitnisburdi, er einn af vors lands og undir

eins Guds sonnu vinum, hefur, í skrift til þeirra engelsku fédra — er svo vel land vort, sem allann heiminn hafa gjøfum sæmt, til gudligra skiptana ef'língar — borid þjód vorri, á þennan hátt: «eptir øllu því sem eg hefi gétad var ordid, eru þar stærri merki sannrar trúrækni, er stefnir til þess eiginliga tilbeidslunnar augnamids, medal íslendskra, yfir høfud ad seigja, heldur en á medal nockurra ann-ara þjóda i Európa." Og í ødrum stad seigir hann svoleidis: «menn meiga fyrir víst trúa því, ad eing-inn reitur, í hvørn félagid híngad til sád hefur sædi-guddómligs sannleika, gétur gefid likligra útlit til ríkrar og yfirgnæfanligrar uppskéru, en á Íslandi."

Þad er þó víst, ad margir fátækir í ødrum løndum leggja fúsari sinn skérf, bædi til biblíufél-agsins, og til annara christnina útbreidandi og styrk-jandi félaga, en sumir efnagódir og ríkir vor á medal.

Til þess væri mér hægt ad framleida mikid mørg dæmi. Í Englandi — til dæmis ad taka, er þad vída sidur, ad fátækt fólk, hvør persóna, gésur 2 til 4 rbskild. á hvørri viku til biblíufélags-ins; og jafnvel børnin gjøra hid sama. Sumir svara þessu þar til þeir sjálfir feingid géta eina bib-líu fyrir tillag sitt; sumir leggja þad út fríviljug-liga, þar fyrir utan. «Einn fátækur gamall madur, sem alltíd hafdi þó ógudligur verid, vanrækt hvíld-ardaginn og adrar skyldur sínar, skrifadi sig fyrir ad kaupa eina biblíu, hvørja nær hann feingid hafdi

og tekid ad lesa, fór hann fyrst ad þeckja syndir sínar; fyrir heilags ánda verkun og sídan hvørnig hann ætti ad leita fyrirgéfníngar á þeim hjá Gudi, og vard þar eptir allur annar madur ad sinnislagi og lifnadarhætti. Sídan lagdi hann einn peníng til félagsins á hvørri viku, til þess ad adrar manneskjur mættu fá biblíuna, ef þær kynnu, eins og hann, ad hafa gott af henni." — «Ein ofur'fátæk konusképna, sem menn hugsudu eckert mundi til félagsins lagt géta, var spurd af þeim, sem fara um kríng, til ad safna undirskrifturum til biblíufélagsins, ad þeirri vanaligu spurníngu: hvørt hún ætti biblíu? svaradi: æ já, blessadur veri Gud minn fyrir þad; eg á eina biblíu, og eg meina mig, fyrir mørgum árum, reýndt hafa hennar guddómliga krapt í sálu minni. Hún er mín einasta skémtan og styrkur, midt í mínu mótlæti. Eg hugsadi, gódir herrar! ad þér ætludud ad gánga framm hjá húsi mínu; en mig hefur þó leingi lángad til ad leggja einn lítinn skérf til þessa félags. Eg hefi gétad dregid saman 12 skild. og vil eg nú géfa þá; og lofa framveigis ad géfa 2 sk. ad viku. Æ! ef eg gjæti, skyldi eg géfa hundradsinnum meira." — «Ein fátæk eckja, med 3 børnum, sem einasta lifdi á því ad þvo soldáta klædi, gaf ogsvo, med gledi, sína tvo skildínga á viku til félagsins; og jafnvel þó hún eitt sinn lidi einn stóran skada af stuldi annara, svo menn þeinktu ecki til ad hún gjæti sitt tillag, til félagsins, betalad, vildi þó

eckert annad samt, en leggja sinn skérf til." «Blind-
ar manneskjur hafa og svo lagt til félagsins, af
gyrnd til þess, ad adrir gjætu feingid biblíu, fyrir
tillag þeirra, þó sjálfir þeir gjætu ecki not af henni
haft." «Einn fátækur blindur madur, sem betladi,
og sem átti gamla konu og 5 børn, keypti tvø test-
ament, fyrir þá peninga, sem hønum gefist høfdu;
því hann sagdi: þad tekur ecki nærri eins á mig,
þó børnin mín séu húngrud, eins og þad, ef þaug
ecki hafa Guds ord fyrir sálir sínar!" «Frá einum
sunnudags skóla hefur félagid feingid, á einu ári,
hérum 200 ríkisd. f. silfri, sem er tillag frá 200
børnum, fyrir hvørja peninga þaug feingid hafa
biblíur og testament." «Einn bónda, nordan til í
Noregi, lángadi svo mjøg til ad eignast eina biblíu,
ad hann eitt sinn hafdi med sér kú til næstu kaup-
stefnu, og baud hana fyrir biblíu, en fékk þó ecki;
því þeir fáir, sem hana áttu, vildu ecki missa þá
blessudu bók fyrir neina jardneska muni." Mørg
fleiri dæmi gjæti eg tilleidt, ad sýna, hvørsu ýmsir
fátækari, en sumir af oss, leggja til biblíufélaga í
ødrum løndum; því hvar helst sønn vyrdíng og elska
til Guds ords er inni fyrir, þar er fátækt og vol-
ædi framar til uppørfunar en apturhalds, ad eign-
ast þann himneska fésjód heil. ritníngar, í hvørjum
sá mótlætti finnur því stærri ánægju og eptirlæti,
sem heimsins geingi framar hafnar hønum. Látum
oss þessvegna, kjæru landsmenn! ædri og lægri,

ríkir og fátækir, kall og kona, úngir og gamlir, styrkja, hvør eptir sínum efnum, þessa dýrdligu stiptun biblíufélagsins, sumir med ad kaupa, sumir med árlegum tillögum hjálpa til ad utgéfa biblíuna; og hætta ecki fyrri en, ecki ad eins hvört eitt heimili, heldur og hvør ein læs manneskja, á hvörju heimili, gétur eignast þennan allra kostuligasta féfjód!

En gjætum þess þó, gódir brædur! eingu ad sídur, ad ecki er nóg ad kaupa og eignast biblíuna, nema madur þá lesi hana; og ecki nóg ad lesa hana, nema madur lesi hana réttiliga. Svo dýrmæt eign, já sú láng dýrmætasta allra eigna, sem þad er, ad eiga eina biblíu, og svo mikil blessun, sem af hennar eign stendur, sé hún brúkud og notud sem vera ber, svo veit eg eingan skadligri edur skélfiligri hlut, í eigu mans, en hana, brúki madur hana ecki, edur brúki óregluliga; því hún áklagar þá víst og fordæmir sinn eiganda fyrir Guds dómstóli. Og heimti Gud alvarligan reikníngskap fyrir, og ávøxt af, nockru því pundi, sem hann hefur oss í hendur feingid, til ad verja oss til heilla, en hönum til dýrdar, þá verdur þad vissuliga af hans ordi edur heil. ritníngu. Þessvegna rídur þá á því, öllum hlutum framar, ad nota sér þessa heil. bók, þegar hún feingin er, réttiliga. En — hvørnig skal madur ad því fara? Um þetta mikilvæga efni er útgéfin og prentadur, á voru máli, hérum 1764, einn lítill piesi, sem inniheldur þeirra gódu gudsmanna, J.

Arndts og J. Frankes, reglur hér að lútandi, hvör að er í of fárra höndum. Fáeinar athugasemdir mætti mér, í þessu tilliti, leifast að framsetja:

1) Skal þá heil. ritníng lesast með djúpustu lotníngu; því nær maður íminndar sér hennar hátign og heilagleika, að hún er sjálfs Guðs eigið orð, í eiginligustu merkíngu, sjer maður bert: að hönum ber að vera jafn auðmjúkum undir hennar lestri, sem hann vildi vera, ef hann heyrði sjálfan Guð eður frelsaran Jesúm, í eigin persónu, af himnum ofan, við sig tala. Hvörsu stórkostliga syndga menn þá, nær þeir lesa ritnínguna, með jafnvel minni virðíngu, en aðrar svokallaðar Guðsorða-bækur; lesa hana svo sem aðra fróðliga historíu bók, sér eður öðrum til holdligrar dægrastyttíngar. Það er opinber synd móti Guðs öðru boðorði, hvörs yfirtroðslu drottinn stakliga hótar refsíngu.

2) Skal ritníngin lesast með hjartanligustu bæn til Guðs, bæði á undan lestrinum, miðt í því maður er að lesa og eptir það. Svo bað heil. Davíð: "opna þú mín augu, svo eg sjái þá dásamligu hluti í þínu lögmáli!" (Ps. 119, 18.) Lesi maður þessa heil. bók bænarlaust, hefur hann ekki meira gagn af hennar lestri, fyrir sálu sína, heldur en einn sjúkur, þó hann taki hinn besta læknisdóm í munn sér, og spíti hönum út aptur, nema miður

sé. Hann skal snúa ordum ritníngarinnar, sem hann les, í bæn til Guds. Til dæmis: lesi madur Jesú ord: „sælir eru þeir sem heyra Guds ord, og vardveita þad" þá andvarpi hann af øllu hjarta til Guds og segi: „æ veittú mér þad, gódi Gud! ad eg alltíd heyrt géti þitt blessada ord med stærstu andakt og audmýkt, vardveitt þad í gódu og sidsomu hjarta, og fært svo af því ávøxt í þolinmædi!"

3) Skal ritníngin lesast med innilegustu gyrnd og eptirlaungun sálarinnar. Eins og einn dauðþyrstur tekur á móti svøluninni, húngradur móti sadníngunni, sjúkur móti lækníngunni og í lífsvoda staddur móti hjálpinni, eins skal einn christinn, seiginn og þrejandi, leita sálu sinni svølunar, sadníngar, lækníngar og lífsbjargar af lestri heilagrar ritníngar. Þá fyrst finnur hann, hvílíkur guddómligur kraptur í henni fólgin er.

4) Skal hún lesast med allra bestu gaumgjæfni, rétt eins athugasamliga sem hinn sjúki les forskrift eins læknirs, hvørsu hann brúka skuli sér meddeilt heilsubótar medal gégn sjúkdómi sínum, og hvøriar vidbúdar reglur hann hafa skuli, bædi midt í því hann brúkar þad, sem og eptir þad hann er heill ordin; eins og einn erfíngi les áhyggjusamliga arfleidslubréf, þess sem hann arfleidt hefur; og eins og einn lífslaus sakamadur les og heyrir feiginsamliga nádarbréf síns konúngs, med hvørju hann gefur hønum líf og landsvist; rétt eins

athuga- áhyggju- og feigin-samliga á ein manneskja ad lesa edur heyra heil. ritníngu.

5) Skal hún lesast í sannri trú. Guds ord er fæda sálarinnar; nú svosem sædan gagnar ei þeirri manneskju, sem hana ei melt géiur, svo ei heldur Guds ord trúarlausri sálu. Því seigir Paulus um gydínga (Ebr. 4, 2.), "ad ord þad, sem Moyses predikadi, hafi ei gagnad þeim, af því þad hafi ecki verid med trúnni medtekid." En trú sú — ef duga skal, verdur ad vera lifandi fyrir vonina til Guds nádar fyrirheita i Christo, verkandi fyrir kiærleikan til Guds og náúngans, og styrkjandi fyrir deydíngu vondra gyrnda, yfirvinníngu heimsins hneigslana og fyrir þolinmædi í allskonar þiáníngum og krossburdi — annars gagnar hún ecki.

6) Skal ritníngin lesast med sjálfsprófun og eptirþánka; ad hlaupa ségnum efnid hastarliga eins og adra fréttasøgu, sem mann gildir einu hvørt hann man edur ecki, er fordæmanligt hyrduleysi. Madur verdur dyggiliga ad hugsa um þad, hann les, og þreingja því inn í sitt hjarta; svo gjørdi Davíd, hvørsvegna hann seigir (Ps. 119): «O! hvørsu elska eg þitt løgmál; dagliga þeinki eg þar um og árla vakna eg til ad hugsa um þad." Madur skal snúa því, sem hann les, í spúrníngu til síns eigin hjarta; til dæmis: þá Petur seigir: "vaxid ínád og þeckíngu drottins vors Jesú Christs"; þá spyrji madur sjálfan sig: «mun þetta eiga heima

hjá mér? mun eg vaxa í náð og þeckíngu Jesú Christs? eda — drottnar í mínu hjarta syndarinnar dofinleiki og myrkur?" o. s. f. lokfins umbreitir hann því íalvarliga bæn til Guds og seigir: «o! himneski fadir! veittu mér ad eg vaxi og þróist í náð og þeckíngu þíns sonar Jesú Christs!" o. s. f.

7) Skal madur lesa ritnínguna med hreinskilnu áformi ad lifa eptir henni. Ritníngin er logbók Guds, en lífsbók Jesú Christi; þessvegna verdur madur ad lesa hana med alvarligum ásetníngi ad hlýda henni; bædi med því ad lifa, sem best madur gétur, eptir hennar sidareglum, og líka trúliga færa sér í nyt þaug blessudu ráð, sem hún leggur, til ad vidhalda andligu lífi sálar sinnar. Annars var manni betra aldrei ad hafa þeckt veg réttlætisins, en frá þeckium honum vísvitandi aptur ad víkja.

8) Einkanliga skal madur lesa ritnínguna í þeim tilgángi, ad finna í henni Jesúm Christum og Gudsnáð í honum. Hann er það himneska manna, sem geymist í þessu kostuliga gullkéri. Já, hann er kjarni, augnamid og midpúnktur ritníngarinnar; hann er læknisdómur vid mannkynsins sálarmeinum, sem eru syndirnar; en ritníngin er ein forskrift um uppruna, náttúru, krapt og brúkunarmáta þessa læknisdóms; hann er sólin í Guds nádarríki, en ritníngin er líkasem himin, á hverjum þessi sólin skín. Þessvegna stendur um hann skrifad: «ad

honn sé sá, hverjum spámenn, þess gamla- og nýa-testamentis, beri vitni, að fyrir hann meðtaki hver, sem á hann trúir, syndanna fyrirgéfníngu" (Gb. 18, 43), og «að allt sé á honum uppfyllt, sem af honum sé skrifað af Móyse, og í spámanna bókum og sálmum" (Luc. 24, 44.) og hann géfur þá á-minníngu öllum: «rannsakið ritníngarnar, því þær eru það, sem bera vitni um mig" (Joh. 5, 39.) O, að allir vildu þessari hans áminníngu trúliga hlýða, þá mundu þeir vissuliga fá það að reyna, að Jesús yrði lækuisdómur, ljós og líf sálum þeirra!

9) Skal heilög ritníng lesast ydugliga. Gjæti menn þess, að svo sem líkaminn þarf dagliga nær-íngar við, skuli hann ecki fyrst kroptum tapa og síðan lífinu, svo þarf sálin þessa við eins. Nú finnur hún hvergi sér þenanliget lífsfóður, nema í þeirri heilögu bók ritníngarinnar (eður og öðrum þeim, sem réttiliga út af henni dregnar eru); þar-fyrir skal maður láta sálu sína dagliga neyta af þessu sannkallaða himnabrauði, vilji hann hún lifi andliga en deyi ecki, og svo loksins ödlist eilíft líf. Hvörsvegna sérhver christin maður skyldi gjöra það að sinni stadföstu reglu, að lesa nockuð í biblíunni dagliga dags, helst á hverjum morgni; en hvað hann les, það lesi hann með inniligri auðmýkt, bæn og trú, og hugsi svo til þess á eptir um daginn, með sama hugarfari, midt undir vinnu sinni; því andaktar- og eptirþánka-laus lestur, er litlu betri

en eingin lestur. Þetta kostar mann ad sönnu, fyrst í stad, nockra sjálfs afneitun — þar spilling náttúrunnar setur sig þar á móti — en yfirvinni hann sjálfan sig til þessa, uppsker hann þar af mikla blessun.

10) Þær bækur ritníngarinnar skal madur helst lesa, sem beinast horfa til ad forbetra hjarta mans og lifnad; til dæmis: lífsögu Jesú Christi, sendibréf postulanna, Davíds sálma, Salómons ordskvidu og predikara; án þess þó ad gánga fram hjá hinum, þegar madur hefur betri tíma. Þad sem madur les, lest hann í röd, þá kémst hann best ad krapti og meiníngu ordsins. Þar er tvenslags augnamid, í hvörju madur les heil. ritníngu; annad til skilníngs svo vel sem til andaktar, hitt til andaktar og forbetrunar einskostar. Í tilliti hins fyrra, les madur eina bók ritníngarinnar eptir adra í röd, og les kanské ædi mikid í einu, med hjartanligri bæn til Guds bædi undan og eptir, svovel um uppljósíngu skilníngsins, sem helgun hjartalagsins. En í sídara tilliti les madur ad eins útvalda stadi úr ritníngunni, 10 edur 12 vers, í einu; og heimfærir undireins hvört ord, sem hann gétur, til síns hjarta, med nákvæmri sjálfsprófun, og rótgróinni bæn og andvarpan til Guds. Þennan sídara slags lestur ætti madur aldrei nockurn dag ad vanrækja, einkum þeir, sem ecki hafa mikinn tíma til lestrar, svosem þjónustufólk annara, sem nýatestamentid á edur átt gétur. Hvörn lestur þess optar madur

æfir, þeſsmeiri framſørum tekur ſála mans, í því góda, fyrir Guds augliti.

11) Þegar nockud fyrirkémur þad í ritníngunni, ſem madur ecki vel ſkilur, þá lætur hann þad þéna ſér til audmýktar fyrir Guds augliti, en brúkar einkum þitt, ſem hann ſkilur, til nota ſálu ſinni, ſem ádur er ſagt. Þar er tvenſlags myrkur í heilagri ritníngu; fyrſt í tilliti til leyndardómanna ſjálfra, ſem aldrei géta údruvíſt en myrkir ordid fyrir mannligri ſkynſemi; í þeſſu heilaga myrkri tilbidur madur Guds veru, víſdóms- og vega-órannſakanligleika í djúpuſtu audmýkt, og ſvo verdur þad myrkur honum ſvo gott ſem ad einu ljóſi. Þarnæſt er hér fyrir utan margt vandſkilid í ritníngunni, bædi vegna tálsháttanna fígúrurík is, ſtílsmátans hátignarfulla ſtuttleika, og ókunnugleika kríngum ſtædanna, ſvovel í tilliti tíma ſem ſtada, hvar vid og ſvo bæta má, vegna leſendanna fáfrædis, edur og ſjálfra útleggínganna óheppiligleika. Þetta myrkur lætur andaktugur leſari heil. ritníngar ei heldur ſkélfa ſig; heldur annadhvort geingur, um ſinn, fram hjá þeim ſtødum, ſem hann ei ſkilur, med hlygdun vegna ſíns fáfrædis, edur gjørir þvílíka heimfærſlu á þeim til ſíns hjarta, ſem meſt heidrar Gud, en audmýkir ſjálfan hann; til dæmis: madur les ord poſtulans Pauls til Romv. 8, 18. 23. „um áhyggjuſamliga eptirbid ſképnunnar eptir opinberun Guds barna." Nú ſkilur hann ei vel, hvad med ordinu „ſképna" hér meint ſé, hvørt þær

skynlausu edur skynjandi skepnur, edur hvorutveggi? Hann gjörir sér þá ekkert óþarft grubl þar um, nema einúngis, í hjartans audmýkt, heimfærir ordanna meiníngu, hid einfaldligasta, til síns eigin hjarta. Hann þeinkir edur segir: «o! ef allar skepnur bjóda eptir Guds barna dýrdar auglýsíngu, æ hvörsu skyldi mig þá ecki lánga eptir henni! En finn eg þá þessa sterku laungun og þreyíngu hjá mér, edur ei? máské mig lángi eptir heimsins hégóma frámar en þessu? o Gud minn, eg bid þig, í Jesú nafni, uppvektu hjá mér þessa eptirþreyíngu!"

12) En á slíkum þúngskildum greinum ritníngarinnar kann hann, þess á milli, ad leita sér upplýsíngar, hvört heldur í gódum bókum edur hjá skriptlærdum mönnum. Fái hann nú ecki sömu útleggíngu hjá öllum, þá fylgir hann þeirri, sem hönum finst mest benda til Guds og Jesú Christs dýrdar, og til síns eigin hjartalags audmýktar og betrunar. En allar séðvitskufullar útleggíngar, sem meir þéna til ad uppvekja grubl en audmjúka tilbeidslu, skal hann umflýa. Þad er heppilig samlíking um heil. ritníngu, sem einn Guds orda kénnari gjörir, á þennan hátt: «ritníngin er lík einu stóru vatnsfalli, í hvörju einn fíll kann svo vel ad bada sig, sem eitt lamb gétur af því slökt sinn þorsta"; meiníngin er: jafnvel þeir stóru og hálærdu doctórar hafi nóg ad gjöra, ad æfa sína skynsemi i ritníngarinnar útleggíngu, og fá þó hennar vísdóms afgrunn aldrei, til fulls, ransakad,

eingu ad sídur finnur eitt frómt og einfaldt Guds barn í henni meir en nóg, sér til trúarstyrkíngar og sálarfrelsunar, í öllum tilfellum. O þá dásamligu bók!

13) Nú kynni einhvør spyrja: „skal eg þá ecki líka svo lesa adrar andligar bækur, fyrir utan ritnínguna?" Jú ad vísu! en madur skal þó alltíd álíta þær, sem einslags læki, út frá henni leiddá, er vísi manni til sjálfs adalbrunnsins; hvar fyrir ad þær eru þess uppbyggiligri, sem þær í sér hafa meiri smeck af ritníngarinnar eigin anda, og fylgja, trúligar, fram hennar lærdóms höfud innihaldi, sem er: „ydran til Guds, og trúin á drottinn Jesum Christum" (Gb. 20, 21.) Þá eru rétt lesnar adrar andligar bækur, þegar lystin til ad lesa heilaga ritníngu, uppvekst og eykst vid lestur þeirra.

14) Þessar hér framfærdu reglur heyra ad vísu einkum til heimugligum lestri ritníngarinnar, nefniliga þegar madur les hana (edur adrar gódar evangeliskar bækur) einn út af fyrir sig; en þær géta ogsvo litid til þess opinbera. Og — hvørsu mikilvæg, hvørsu óeptirgéfanlig skylda er þad ecki, fyrir hvørn og einn húsfødur, ad hann, einusinni edur tvisvar á hvørjum degi, safni saman børnum sínum (ef hann á þaug), og heimafólki, og opinberliga, med allri andakt, lesi fyrir þeim nockud út af heilagri ritníngu, edur ødrum andríkum bókum, og sídan sameiginliga med þeim, út af lestursins

innihaldi, tilbidji Gud í anda og sannleika, í nafni Jesú. Er ecki Guds lifanda ord þad dýrmætasta pund, sem hann hefur feingid oss í hendur ad verdsla, og skyldum vér þá ecki halda því á mángarans bord, til ad ávinna þar med sálir annara? Vitum vér ecki hvílíkan dóm sá lati þjón feck, sem gróf sitt pund i jördu? (Math. 25, 27-30. Luc. 19, 23. 24.) Þetta er þad himneska ljós, er setiast skal á kértahaldinn, svo þad lýsi öllum þeim sem í húsinu eru (Math. 5, 15.) Hvörsu alvarliga heimtadi Gud af Israels fólki, ad þad skyldi sitt heilaga lögmál um bönd hafa í húsum sínum, og ræda um þad, seint og snemma, fyrir börnum og hjúnum? (5 Mb. 6, 7.) og hvörsu miklu framar er þá þetta ecki vor skylda í tilliti evangelii, sem þeckir einn lángt skjærari og blídari veg til eilífs lífs, en lögmálid? Hvör sá húsfadir, sem þetta vanrækir, má vid þúngum reikníngskap búast, fyrir Guds dómi; og þad því heldur, sem þad er stærsta teikn til þess, ad sá ecki brúki Guds ord sér til nota heimugliga, sem hyrdulaus er í ad meddeila þad ödrum. Því sá heimugligi lestur, skéi hann annars med réttri andakt, kveikir hjá manni drift til þess opinbera, og sá opinberi aptur lißt til þess heimugliga.

15) En ádur en eg skilst vid þetta vigtuga málefni, gét eg ei bundist ad minnast einnar naudsýnligustu vidvörunnar hér ad lútandi. Hún er þessi: ad vid allan þvílíkan lestur, sem vid hvörjar helst adrar andaktaræfíngar, hvört sem þær ské heim-

ugliga edur opinberliga, hljóta menn trúliga ad taka sér vara vid því, ad þær ecki med tímanum snúist upp í eintómis vana-serimoníu, sem einga verkun færir til hiartans og lifnadarins betrunar, en madur setur þó einslags traust og tillit til, sem eins Gudi mikid þóknanligs verks; hvad stórum óttast má, ad hendi sig vid þá svokölludu húsklestra — svo hrösverdir þeir í sjálfum sér eru — hjá allt af mörgum vor á medal. Vari sig hvör einn, í Guds nafni, vid drepsótt þessari, er svo audveldt kann ad innlædast, og giöra jafnvel þad besta verk mans ad verstu synd; og þad kröptugasta Guds sálu hjálpar medal ad sálar eitri; því þegar Guds ord sjálft vinnur ei leingur á manneskjuna til umvendunar, hvört medal hefur þá Gud eptir, henni til heilsubótar?

En til ad koma í veg fyrir þessa stóru ólucku, er atferd sú, vid Guds orda heimugligan lestur, sem hér ad framan, í þeim fyrstu 8 reglum, kéndur verid hefur, þad besta varnar medal. Gud giæfi sem flestir færdu sér þad í nyt!

Ad lyktum ítreka eg en þá kjærleiksfullu uppbvatníngu, til allra minna lesenda, í tilliti ritníngarinnar: ad þeir med stærsta fögnudi taki á móti þessari heilögustu bók, og hjálpi til ad útbreida hana vor á medal; svo hvört hús í landinu, hvör sál í húsunum verdi upplýst af hennar ljósi, helgud af hennar krapti og endurnærd af hennar sætleika. Látum oss, sem sérílagi erum, og eigum ad vera

útvaldir ritníngarinnar talsmenn, og ráðsmenn yfir hennar leyndardómum, látum oss, af öllum kraptum, hvetja fólkið til að eignast og nota sér þetta himneska hnoss; kennum þeim, sem best vér getum, að brúka hana sér til blessunar, og gefum þeim, með uppfræðíngu vorri, útan kyrkju sem innan, að smacka hennar lífsætasta kjarna, sem fólgin er í lærdóminum um Jesúm Christ og hann krossfestan. Svo munum vér sjá hinn sælurikasta ávöxt spretta af atburðum vorum, og að Christs kyrkja hjá oss hafi gnægan gróðrarvökva, sem einn Guðs aldingarður, hvar eð eikur réttlætisins blómgist og beri dælliga ávexti á sínum tíma, aldingarðsins herra til æru og dýrðar, sjálfum vökturunum til sóma og gleði, og öllum hans innbyggjurum til andligrar og eilífrar blessunar, fyrir Jesúm Christum.

---

## Uppvhvatning að lesa heilaga ritníngu

(eptir Gellert).

Skuli þitt heilsu hljóta hjartað, af syndum lýtt,
þá Guðs orð, þér til bóta, þú skyldir yðka tíðt.
Gjæt þess, að orð hans geymir, glediligt hjálpar ráð
útvegað öllum heimi, og anda Guðs dýra náð.

Hlýð því, sem heyra fáir, hrópandi Guð sjálfann;
hlýð því, sem heyra náir, af himnum hans tal við
mann!
hljúgur það lesa lærðu, lísing' og trausti með;
áform slíkt í þér nærðu að betrist lífernéð.

Seig: minn Guð! sem ákalla sannheilög boðorð þín,
veit mér eg æsi alla, álíti farsæld mín!
ráð þitt, með reynslu hreinni, rétt skilja géf mér, sjá
undir þíns lögmáls einnig og orðsins af krossi sá.

Hann sannleiks Guð ei géfið gétur í villu þig;
les þá bók hann sem hefir helgað, svo þeckir sig;
við sem þarft, vel munt skilja; veitir Guð speki þeim,
ljúft sem hans leita vilja og lögmál hans elska' í
heim.

Frá þér æ forðóm hrittu, flýðu sterk anríkis;
anda þíns allrar neittu orku, þá Guðs orð les.
Morgun, dags deild þá bestu, dýrri þú ritníng skalt
helga, það hug í festu! og hvíldardaginn ávalt.

Hræri þitt hjarta kraptur hulinn í nockri grein,
minst hennar allopt aptur um daginn, til þess reýnt;
lát hennar inntaks anda efla þig svo til góðs,
að hljótir, í hverjum vanda, hugrecki' án stygða
móðs.

Dygðir svo drýggja skyldum drottinn oss setti' í heim;
ritníngar ráðin mildu ræktú, því aldrei gleym!
þá muntú var þess verða að vísdómur Guðs hún er,
í sannleik réttum sjerð' hann, svo framt þú hlýðni
tier.

Ef leyndadóma lítur, lát þig ei fæla slíkt,
mans skilníng hyliast hlýtur herrans djúp vitskurkt.
Gud er hár án alls enda. Ef hann þér byrtir sig,
trú skaltu søgn hans senda; sjálfsþótti' ei villi þig.
Sést mínkun sér ad dæma sitt dapra ljósskornid
hjá Guds, eg hygg þad sæma. Ad hertaka skyn-
bragdid,
ef Gud sig opinberar, er skylda christins mans
í audmýkt sá ecki sparar, ordum ad trúa hans.
Láttu þig eingan efa ángursemd fylla hér;
þú ert barn; Gud mun géfa gnægra ljós sídar þér.
Med farsæld þróast þinni, þitt ljós eilífa tíd,
í skjærri skodaninni, skiptist um trúin blíd.
Heidra þú ritníng hreina; ef hittir þar ordin myrk
lát vin þinn braut þér beina, sem búinn er ædri
styrk.
Ritníngu ransakandi rétt skynsemd, ákall þídt,
og frómt hjarta' í freistnis standi frábægir myrkri
tídt.
Haltú fast herrans ordi, í heimi þad lucka' er þín;
andar þér sári fordi, svo sáir þá sælu', ei dvín.
Forsmá þann spott ad særir frædum ritníngar hér;
lærdómur, sá hann særir, samt drottins kénníng er.

---

Kaupmannahøfn 1818.

Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.